# ÞRÍ - MINNI

Hra. Overaudíteurs *O. Stephensens,*

og

Candídatanna

Hra. Theologiæ *Th. Sæmundsens*

og

Hra. Chírurgiæ *E. Jóhnsens.*

þann 23dia April 1832.

Kaupmannahöfn.
Prentað hjá *H. F. Popps* ekkju.





*Lag:* **En nyfödt Sol i Östen glöder &c.**

Opt liómar sól á himni hlýa
svo hriggist bædi og kætist géd,
opt gustar kaldt úr gulli skýa
grætr náttdögg á klaka bed,
ad meingud hér opt vor grát' sé gledi — en
þad góda er æ gott —
og súrt sé opt hvad oss skapfeldt skédi, þess
skodum nú vott,
*Thómas* og *Eggert* bádir fara nú brott. :|:

Oss kætir þeirra frami frídr,
en flokki ad missa úr vorum þá
í vina brióstum sáran svídr,
seint þeirra líka munum fá,
hvör mun sem þeir á hlid vora standa? sem
hlýandi sól,
hvör mun oss feril svo frægann vanda, um
framferdisból?
betri eingann bergmálar, Frónid ól. :|:

*Annar* líkhams, *Hinn* andar-meinin
albúnir, grœda, ferdast heim,
ljómandi feingu lausnarsteininn
æ! lukkist störf þau bádum tveim!
þeim Eina: ad leysa frá öllum sindum, og
andans þrá,
en Hinum: fra lifsins leidu vindum, sem líkam
ann þjá
vídfrægir þeir verdi löndum á! :|:

þad heitir nú í heidri ad bada
hér vid ad skylia eins og þid,
leiddir heim-gusti' er lunds triáblada
leikr um gæfu — blómgud svid.
Eg vildi géfa til Á med lambi, og árbæra Kú,
ad Candidats hreykti eg hanakambi, sem hvör
ykkar nú,
en vart árlángt mér vegsemd hlotnast sú! :|:

*Ólafur!* þig ad um fer lióda
sem Ása-goda oss veitir-mjöd,
þad er nú *Vingud* vatn ad bióda
og velgiugjarnt um sinnis-tröd;
En þad er viljinn sem veitir ad tarna, þó
vyrda sé smá,
upprunnin skíni þér audnustjarna, med yndæli
há,
þinni brosi' hún brautu jafnan á! :|:

Sem Cymbrar vóru í hreysti háir
Heimsins undran á sinni tíd,
adr' eins vyrdíng þér óska' eg ljái
Embættis færslá' yfir þessum líd,
svo stígir í völdum ár frá ári, og audnunnar glans,
af sæmda teiknum, og silfrhári, setjist þér Krans,
ætt liós verdir, æra födrlands! :|:

Bresta fer gled' úr brædra ranni
þá burtu víkr þú oss frá,
ærlegt framar af eingum manni
ord fellr, líf er kæta má.
Æ! send þú oss bögu frá Cymbra ströndum, vér syngium þær hér!
blessandi kvedjist nú bródrhöndum, Brædranna hver!
Heilir frá oss farid nú allir þér! :|: